Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

6.tbl. 21.mars - 4.apríl 1979 200 kr.




## Kröfuganga samstarfshóps um dagvistunarmál 24. mars

7

## Sparnaður á sjúkrastofnunum – Kópavogshælið verður verst úti

Fyrir kosningar kepptust pólitíkusar um að boða herferð gegn "sukki og óstjórn" í kerfinu. Hinn almenni kjósandi sá fyrir sér svignandi veisluborð opinberra pótintáta, glæsta ráðherrabíla og 3-4 framkvæmdastjóra sömu stofnunar, sitjandi í kaffi allan daginn – og hreifst að vonum við tilhugsunina um að þrífa skyldi til í slíkri spillingu, fólkinu til góða. Því sömu pólitíkusar lofuðu auðvitað líka félagslegum úrbótum hver um annan þveran.

– En auðvaldskerfið skiptir ekki svona léttilega um ham. "Vinstri" og "hægri" stjórnir koma og fara, embættismenn veljast eftir alls kyns pólitískum lit-

5

### Hvers vegna ekki? – um afstöðuleysi Rauðsokka til heimsvaldastefnunnar

4

### Félagsfundur verkamanna í Straumsvík:

3

## Franskur fréttamaður í Kampútseu:

# Víetnamar einangraðir í borgunum!

Nýlega birti þýska blaðið DER SPIEGEL fréttir um ferðir fransk blaðamanns í Kampútseu. Frásögn frakkans, Denis Reichle, staðfestir frásagnir stjórnarinnar í Kampútseu um að víetnamska innrásarliðið er einangrað í tómum borgum og ræður engu nema örlitlum hluta landsins. Denis Reichle fór fótgangandi fleiri hundruð kílómetra inn í Kampútseu (sjá kort) og gisti meðal fólks sem var önnum kafið við að rækta landið og berjast gegn innrásarhernum. Hvergi varð blaðamaðurinn var við hina "miklu uppreisn gegn ógnarstjórn Pol Pots" sem sumir hafa reynt að fræða okkur um. Frásögn Denis Reichle gerir lítið úr fréttaflutningi fjölmiðla um "hina föllnu stjórn Pol Pots" – þvert á móti sýnir hún að stjórnin er

Frh. á bls. 2




## Alþýðubandalagið í Kópavogi:

# Grundvallarágreiningur um stefnu og starf

## – viðtal við Helgu Sigurjónsdóttur og Finn Torfa Hjörleifsson

Mikill ágreiningur er uppi í Alþýðubandalaginu í Kópavogi. Hópur áhrifafólks í flokksfélaginu þar lagði niður störf í bæjarfélaginu, sem það hafði tekið við eftir síðustu bæjarstjórnarkosningar, þegar meirihlutasamstarf Alþýðubandalags, Framsóknarflokks og Alþýðuflokks hófst. Þeir sem sögðu af sér rökstuddu það m.a. með því að forysta Alþýðubandalagsins í Kópavogi hengi í pilsfaldi hinna flokkanna og sýndi enga sósíalíska róttækni í bæjarmálastarfi sínu. Í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins var frá þessu sagt í stuttri grein, Án þess að haft væri samband við þá sem hlut eiga að máli, er þar staðhæft, að uppgjörinu sé "stillt upp af brotthlaupsmönnum sem róttækri andstöðu við hægfara tæknikrata. Ekkert í rökstuðningi hinna róttæku gefur tilefni til að líta svo á, enda er hvorugur hlutinn hinum róttækari, og báðir eru jafn aftarlega á merinni, þegar afrek þeirra eru skoðuð." Hér er all harkalega til orða tekið og án rökstuðnings. Við hugsuðum okkur því að gera bragarbót og leituðum til tveggja af þeim sem sögðu af sér, Helgu Sigurjónsdóttur, sem var forseti bæjarstjórnar og formaður félagsmálaráðs, og Finns Torfa Hjörleifssonar sem átti sæti í skólanefnd og náttúruverndarnefnd. Við byrjuðum á því að biðja þau að segja álit sitt á fullyrðingu Verkalýðsblaðsins.

"Þeir eiga sömu efnahagslegu, pólitísku og hugmyndafræðilegu hagsmunanna að gæta."

"Ekki hægt að orða hentistefnusjónarmið miklu skýrar."

"Alþýðubandalagsforystan vill stjórna þessu öllu á borgaralegan hátt og halda áfram að hygla atvinnurekendum."

"Sé bryddað upp á stefnumálum sósíalista, er það kallað ofstæki."

"Við ógnuðum borgaralegum hagsmunum Alþýðubandalagsins í Kópavogi."

"Ég er ekki sannfærður um að sósíalískur flokkur geti tekið þátt í stjórnum borgaralegs þjóðfélags."


Helga Sigurjónsdóttir


Finnur Torfi Hjörleifsson

7




# Stjórnarkreppa – kjararánsfrumvarp

Öll merki stjórnarkreppu eru á lofti. Auðstéttin á æ erfiðara með að verjast kreppuþróun efnahagsmála og stjórnunar. Í slíkri stöðu eru mörg járn í eldinum og mikilvægt að alþýðan nái að gera sér vel grein fyrir innihaldi efnahagsfrumvarpsins, sem stjórnarflokkarnir eru að bræða með sér. En það er erfitt vegna margra illskiljanlegra ákvæða í drögunum. Þá koma til blöð stjórnarflokka og stjórnarandstöðu - og kennir hver öðrum um litla hæfni til að bjarga innanfúnu og óhæfu skipulagi.

T.d. hneykslast Morgunblaðið á kaupráninu nú en ver kaupránið sl. vor því þá varði Geir og kó "þjóðarhag". Þjóðviljinn segir fullur hræsni: "Kratar vilja 6-7% kauplækkun". En svo vill Alþýðubandalagið (AB) sjálft minnka verðbætur með því að miða þær við viðskiptakjör, og setja vísitöluna sem 100 miðað við 1. febrúar. Hvað skyldi það tákna margra prósenta kauplækkun?

Meginatriðið er ljóst: Núverandi stjórnarflokkar og Sjálfstæðisflokkurinn keppast allir um að styðja og styrkja riðandi auðvaldsskipulagið - þeir eru ósammála um sumar leiðanna til þess og vilja fela misvel árásirnar á vinnandi fólk landsins.

## ÝMSAR BREYTINGAR Á FRUMVARPINU

EIK(m-l) greindu meginatriði frumvarpsins og tilgang þess í Verkalýðsblaðinu nr. 4 og nr. 5 og hvöttu til baráttu gegn því. Nýju drögin þarfnast nokkurra viðbóta.

Í þeim er staðfestur samdráttur ríkisútgjalda og -fjárfestinga. Höfum við áður sýnt hvernig það hljóti að bitna á atvinnu fólks og félagsþjónustu. Athygli vekur að AB gengst inn á þetta, eftir fyrri mótmæli og loforð um "félagsmálapakka" til að bæta upp verðbótastuldi.

Þá eru skýr ákvæði í drögunum um verðtryggingu sparifjár og lána. Menn geta sagt sér hve mikið verðtrygging sparifjár hjálpar alþýðu manna sem rétt lifir á laununum og hvað t.d. verðtryggð lán til íbúðakaupa gera sama fólki - samtímis hafa atvinnurekendur fé milli handa og ótal undanþágur frá því að endurgreiða lán með fullri verðtryggingu. Auk þess sem stórfyrirtæki nota erlendan lánamarkað.

Minnka á peningamagn í umferð um 5% á árinu, en því var AB upphaflega á móti, en síðan á t.d. að nota 3 milljarða á tveimur árum til "hagræðingar" í atvinnugreinum - þ.e. auka afraksturinn án launabóta.

Loks er fallið frá hugmyndinni um Kjaramálaráð sem átti m.a. að taka allt frumkvæði í samningum í sínar hendur, en treysta þess í stað á "samráðshópa" um ákveðin mál. Á þessu er stigs- en ekki eðlismunur.

## KAUPRÁNIÐ ÁFRAM

Auðstéttin beinir enn sem fyrr spjótum sínum fyrst að lifibrauði launavinnufólks. Fyrir henni er það eini sjóðurinn sem hún getur sótt fé í til að borga eigin kreppu. Hennar gróði skal varðveitast!

Í nýju drögunum er fallið frá"frystingu" verðbóta við 5%. Í staðinn koma smærri skerðingar sem virðast í fljótu bragði leiða til svipaðs kaupráns. Reyndar er AB aðeins samþykkt sumum þessara atriða og greinilega miklar andstæður innan flokksins um efnahagsmálin. Og krafan um samningana í gildi er gleymd og grafin í augum forystunnar.

Í drögunum er vinnuliður búvöru enn utan verðbótavísttölunnar, áfengi og tóbak sömuleiðis (jafngildir 1-2% kauprýrnun á ári). Þegar hækkun olíuverðs verður mætt með sköttum á vinnandi fólk, verða þeir ekki teknir til hækkunar vísitölu og því ekki bættir með kaupauka. Táknar það stórfellt kjararán því verðhækkanir geta orðið 10-30 milljarðar kr. á ári. Þá er í ráði að rýrnun viðskiptakjara verði látin lækka verðbæturnar.

Meðal nýmælanna er að finna ákvæði um að láta vísitöluna byrja að telja verðbreytingar frá 100 stigum miðað við 1. febrúar sl. og setja hana síðan í 100 stig við hvern útreikning á þriggja mánaða fresti. Þannig er þungi frádráttarliðanna aukinn og verðbætur í júní þegar lækkaðar um 1,1%.

Heildarmatið er á þá lund að kaup- og kjaraárásir sem felast í núverandi drögum eru síst minni en áður, kauplækkunin er áætluð 6 - 7% 1. júní.

## HVAÐ GERIST?

Andóf ASÍ og AB - foringjanna gegn frumvarpinu hefur ekki leitt til verulegra breytinga á því, verkafólki og annarri alþýðu í hag. Fundnar hafa verið nýjar leiðir til kjaraárásanna, margar með samþykki stéttasamvinnumannanna. Þeir eru sammála atvinnurekendum um skertar verðbætur að hluta, um viðmiðun við viðskiptakjör og borgunargetu auðvaldsins og um leið að láta alþýðuna bera stóran hluta olíuverðhækkananna.

Það er varnarbarátta fjöldans, mótmæli stéttar- og hagsmunafélaga og aðgerðir þeirra sem eru árangursríkastar. 1. maí n.k. er gott tækifæri til þess að fylkja baráttusinnum.

Andóf ASÍ og AB-foringjanna er bundið tvennu. Annars vegar eru fölsku verkalýðsforingjarnir að dreifa kaupráninu og fela það betur með "róttækninni", en hins vegar að biðla til kjósenda í atkvæðaleit. Andófið getur leitt til falls ríkisstjórnarinnar og kosninga í vor. Það fer eftir gangi mála á Alþingi. Auðstéttin er knúin til að ná meginefni frumvarpsins fram sem fyrst - það tekst henni að öllum líkindum hvort sem guðfaðirinn verður ríkisstjórn Ólafs, Lúðvíks eða Geirs. Enginn núverandi flokka berst fjöldabaráttu fyrir því að auðvaldið beri sína kreppu sjálft - verkalýðsflokki með þá stefnu, verður að koma á fót sem fyrst.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar 14.3.1979

# Mondale fái réttar viðtökur!

Varaforseti Bandaríkjanna W.Mondale heimsækir Ísland í apríl. Tilgangur fararinnar er að treysta samstöðu ríkjanna í alþjóðamálum og viðskipta- og menningartengsl.

Bandaríkin eru enn mesta efnahagsveldi heims og risaveldi sem er andstætt alþýðu heimsins, flestum þjóðlöndum og íslenskri alþýðu.
En ítök þess, arðránsstaða og herveldi þokast æ hraðar til hliðar fyrir ríkisauðvaldi Sovétríkjanna. Í samkeppninni felst gífurleg stríðshætta.

Þrátt fyrir breytingar á stöðu Bandaríkjanna er full ástæða, sem fyrr, að ítreka nauðsyn þess að barist sé gegn bandarískri heimsvaldastefnu á Íslandi. Nægir að minna á Alþjóðagjaldeyrissjóðinn, auðhringa á borð við Suissaluminium (Straumsvík) og NATO-stöðvarnar hér. Við stöndum vörð um sjálfstæði þjóðarinnar og hag alþýðunnar með baráttu gegn báðum risaveldunum - Sovétríkjunum og Bandaríkjunum. Þess vegna hvetjum við samtök, þ.á.m. Samtök herstöðvaandstæðinga og stjórnmálaflokka til þess að mótmæla stefnu Bandaríkjanna og sýna hug sinn til bandarískrar heimsvaldastefnu við komu Mondales hingað.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar 6. febrúar.

# EIK (m-l) styðja Kína

Framkvæmdanefnd EIK(m-l) hefur sent frá sér stuðningsyfirlýsingu vegna aðgerða Kínverja á landamærum Kína og Víetnam. Segir í yfirlýsingunni að "Víetnam er útvörður sovésku heimsvaldastefnunnar í SA-Asíu og hefur ástundað þar grófa útþenslustefnu, sbr. innrásina í Kampútseu og hersetuna í Laos. Víetnamar hafa einnig haft í frammi sífelldar ógnanir við kínversku landamærin sem skálkaskjól til að byggja þar mikil hernaðarmannvirki..." Ennfremur segir: "Innrásin er ekki brot á fullveldi Víetnam (sem Sovétríkin hafa skert verulega nú þegar) því hún miðar ekki að því að leggja víetnamskt landssvæði undir Kína eða steypa stjórn landsins. Innrásin ógnar ekki heimsfriðnum þar eð hún heggur skarð í hernaðaruppbyggingu Sovétríkjanna. Hún er í samræmi við hagsmuni alþýðu heimsins".

Ennfremur hafa"KFÍ/ML" og Arnþór Helgason formaður KÍM tekið sömu afstöðu.

## Kappræðufundum lokið

Fyrirhugaður kappræðufundur EIK(m-l) 12.apríl með Alþýðubandalaginu fellur niður. EIK(m-l) gerðu þrjár tilraunir til þess að knýja á um svar - án árangurs. Í stað þessa fundar munu EIK(m-l) líklega efna til hátíðarfundar að kvöldi 1.maí í Reykjavík. Verður þar fjallað um fyrirhugaða stofnun raunverulegs verkalýðsflokks, flutt fjölbreytt skemmtidagskrá, ávarp erlends gests og dansað fram eftir kvöldi. Verður sagt nánar frá fundinum í næsta tbl. Verkalýðsblaðsins.

EIK(m-l) gera nú hlé á kappræðufundunum. Þeir urðu alls fimm og heppnuðust ágætlega - bæði sem kynning á kommúnískri stefnu og til þess að skýra markalínur milli EIK(m-l) og yfirlýstra vinstri samtaka eða annarra. Við metum gallana minni háttar, en þeir komu helst fram í undirbúningsvinnu svo sem ófullnægjandi framsöguerindum af hálfu EIK(m-l) á a.m.k. einum fundanna. Þráðurinn verður tekinn upp að nýju í haust.

Framkv.nefnd miðstjórnar.

SPÁNARSKÝRSLUR ....

Frh. af bls. 3

5 ár gæti sótt um styrk til hvers konar utanlandsferða. Kom fundarmönnum þetta á óvart og lítið hefur stjórnin gert til að upplýsa venjulega félagsmenn um úthlutunarreglurnar, enda kannski ekki til ætlast að nema sumir viti um þetta.

Ekki fékkst upplýst við hvaða launakjör starfsmenn félagsins búa þrátt fyrir ítrekaðar fyrirspurnir. Að félagsmenn skuli ekki mega vita, hvað þeir borga starfsmönnum sínum í laun, þótti mörgum fundarmönnum undarlegt.

Í lok fundarins voru bornar upp nokkrar ályktunartillögur frá félagsmönnum. Var m.a. samþykkt tillaga þess efnis að stjórn St. Rv. styddi þær aðgerðir sem eru í uppsiglingu varðandi dagvistarsamstarf, þ.e. undirskriftarsöfnun og kröfugöngu, og hvetti félagsmenn til þátttöku. Nú er að sjá hvernig stjórnin mun fylgja þessari samþykkt aðalfundarins eftir.

Fréttaritari.

# Viðræður milli EIK (m-l) - KFÍ/ml?

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) hefur nú gert "Kommúnistaflokki Íslands" tilboð um könnunarviðræður samtakanna með sameiningu fyrir augum.

Stungið er upp á nokkrum fundum fulltrúa miðstjórna samtakanna til þess að skýra ágreining og samstöðu og kanna samkomulagshorfur.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) hefur í þessu skyni greint að þau málefni sem við teljum samtökin þurfa að ná samkomulagi um fyrir sameiningu og svo þau er geyma má þar til samtökin eru sameinuð. Í fyrri flokkinn falla mál eins og verkefni kommúnistaflokks og undirbúningssamtaka hans, greining á verkalýðsstéttinni (hverjir tilheyra henni), mat á upphafsárum "KFÍ/ML" ofl.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) segir í bréfi sínu til "KFÍ/ML" að það séu einkum þrjú atriði sem breyti fyrri afstöðu EIK(m-l) um að vel unnið svar við sameiningargrundvelli EIK (m-l) frá 1976 og uppgjör við starf og stefnu KSML (forvera flokksins) sé forsenda viðræðna milli þeirra Í fyrsta lagi útheimtir harðnandi stéttabarátta eflingu kommúnísku hreyfingarinnar, í öðru lagi eykst hættan á heimsstyrjöld og andstæðingar kommúnista þjappa sér betur saman sbr. "samstöðufundinn" með Sovétríkjunum og Víetnam í Háskólanum á dögunum. Í þriðja lagi geta EIK(m-l) ekki beðið eftir að"KFÍ/ML" gangi að fullu að kröfum sem staðið hafa óbreyttar í rúm tvö ár og flokkurinn hefur þegar sumpart svarað. Samtímis hafa EIK(m-l) verið að endurmeta ýmsa þætti starfs og stefnu og breytt eða fyrirhuga breytingar á þeim. Í bréfinu kemur skýrt fram að EIK(m-l) hafa hvorki breytt skilyrðum sameiningar né mati sínu á "KFÍ/ML". Við teljum slíkt ekki eiga að geta komið í veg fyrir viðræðurnar og lítum svo á að þær séu einmitt hafnar í þeim tilgangi að staðfesta eða breyta afstöðu EIK(m-l) og "KFÍ/ML".

12.03. Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l)

VÍETNAMAR ....

Frh. af forsíðu

í fullu fjöri og hafa landsmenn náð góðum árangri í baráttunni fyrir frelsun landsins undir hennar stjórn. Denis Reichle er einn þeirra sem tala um "kúgunarstjórn Pol Pots" - en ekkert í frásögn hans staðfestir slíka útlistun. Ef einhver sannleikur væri í þeim frásögnum þá væri staða víetnömsku herjanna og leppa þeirra ekki jafn aðþrengd og raun ber vitni.

# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Félagsfundur verkamanna í Straumsvík:

# Litlar kjarabætur

Í síðasta tbl. var birt dreifirit frá nokkrum verkamönnum í Álverinu í Straumsvík varðandi nýja kjarasamninga, sem þá höfðu verið undirritaðir, en eftir var að bera undir félagsfund. Þessi félagsfundur var svo haldinn 5. mars. Samningarnir sem fram voru lagðir fela aðeins í sér örfáar kröfur, sem fram voru settar. Það sem vannst var fyrst og fremst almenns eðlis, og launahækkun var rúm 5%. Nærri allar kröfur sem komu frá einstökum deildum voru saltaðar, en þær voru flestar þess eðlis að samræma launaflokka og hækka þá og að sömu störf falli undir sömu launaflokka. Auk þess voru kröfur eins og um 80% álag á yfirvinnu, aukningu á orlofi o.fl.

Á fundinum gerðist það helst að trúnaðarmenn skýrðu út "kjarabæturnar" og lögðu



til að þær yrðu samþykktar. Fram kom einnig tillaga um að fella samningana. Sú tillaga hefði líklega falið í sér að nauðsynlegt hefði verið að fara í verkfall. Notuðu fylgjendur samningsins sér það óspart og hræddu félagsmenn með verkfallsgrímu sinni. Jafnframt bentu þeir á að ekki væri hægt að ætlast til mikils, þar sem árangurinn á hinum almenna vinnumarkaði gæfi ekki tilefni til þess. Voru trúnaðarmenn sammála um það að "vinstri" stjórnin hefði svikið kröfu sína um "samningana í gildi". Aðaltrúnaðarmaðurinn Örn Friðriksson, gekk svo langt í máli sínu að staðhæfa: "Ef ég færi í slag, þá setti ég kröfuna hærra, eða lífvænleg laun fyrir átta stunda vinnudag".

Andstæðingar samninga bentu á að það væri síst ástæða til að samþykkja svo lélega samninga eftir það margháttaða kjararán sem á undan er gengið, sbr. 1.des. lögin, 1.mars-vísitöluna og væntanlegt efnahagsmálafrumvarp ríkisstjórnarinnar.

Nokkuð hefur verið rætt um breytingar á lífeyrismálum starfsmanna álversins, s.s. stofnun sérstaks lífeyrissjóðs á svæðinu. Á þetta er óljóst minnst í samningnum, og reyndu fylgjendur hans að nota sér þetta ákvæði og töluðu um, að það gæti nú verið gott að fá lífeyrissjóðslán, t.d. vegna húsbygginga eða annarra útgjalda. Gall þá við kall utan úr sal: "Nú en er það ekki vegna þess að kaupið er alltof lágt?" Varð þá fátt um svör.

Lyktir fundarins urðu þær að samningurinn var samþykktur með 100 atkvæðum gegn 69. Andstaðan var því sterk. Hún má ekki gefast upp við svo búið heldur búa sig undir enn meiri átök í framtíðinni.

Fréttaritari.

VIÐBÓT: Starfsstúlkur í mötuneytum og ræstingu fengu einnig að greiða atkvæði um samninginn. Þær felldu hann með 16 atkvæðum gegn 12. Var þá brugðið skjótt við og daginn eftir haldinn annar fundur, þar sem málin voru "skýrð út" og þeim bent á kaupaukaákvæði sem þeim kæmi að notum. Trúnaðarmaður kvennanna studdi samningana og gerði sitt ýtrasta til að fá þá samþykkta. Fór svo að konurnar samþykktu því daginn eftir, það sem þær voru búnar að fella.

Sami.




## Dagvistar – samstarfið:

Eins og Verkalýðsblaðið hefur margoft getið um er hafið samstarf allmargra félaga og hreyfinga um dagvistarmál í þeim tilgangi að knýja á um úrbætur. Á kvennabaráttufundinum 11. mars hófst söfnun undirskrifta undir kröfuna "Næg og góð dagvistarheimili fyrir öll börn:" Söfnunin mun standa í u.þ.b. tvo mánuði, og er ætlunin að safna 15 - 20 þúsund undirskriftum. Verkalýðsblaðið hvetur alla lesendur sína til að taka þátt í undirskriftasöfnuninni og hafa samband við samstarfshópinn, en það er hægt með því að fara í Sokkholt að Skólavörðustíg 12 á fimmtudögum kl. 17.30 - 18.30 . Þar fást bæði listar og merki, sem ætluð eru til að fjármagna starfið. Þar eru einnig afgreidd dreifirit frá hópnum.

Á forsíðu er auglýsing um kröfugöngu, sem dagvistarhópurinn stendur fyrir þann 24. mars nk. Við hvetjum alla lesendur til að fjölmenna í gönguna og fá með sér vinnufélaga, skyldmenni, vini og kunningja. Sýnum aflið á bak við þessar réttmætu kröfur.

## Starfsmannafélag Reykjavíkur:

# „Höfum ekki áhuga á Spánarskýrslum"

Aðalfundur í Starfsmannafélagi Reykjavíkur (St.Rv.) var haldinn 10. mars sl.

Fundurinn var haldinn að Grettisgötu 89, og ekki hefur stjórnin búist við mikilli aðsókn í þessu 2500 manna félagi, því ekki var pláss fyrir alla sem mættu, en líklega hafa um 100 manns mætt.

Fundurinn hófst á því að formaðurinn Þórhallur Halldórsson las skýrslu stjórnar og gjaldkerinn skýrði reikninga félagsins.

Var félögum síðan heimilt að koma með fyrirspurnir og gera athugasemdir. Tóku allmargir til máls og var greinilegt að formanni þóttu fyrirspurnirnar óþarfar (óþægilegar?). Gekk hann svo langt að beina því til félagsmanna að vera ekki að tefja fundinn með fyrirspurnum, en næsti liður á dagskrá var kaffihlé.

Þórhalli þykir líklega til einum of mikils mælst að vera til viðtals einu sinni á ári fyrir félagsmenn sína.

Ýmislegt fróðlegt kom þó fram í umræðunum að svo miklu leyti sem þeim var svarað. T.d. var spurt hverjir fengju styrk úr Menningar og kynningarsjóði St.Rv., og hvort styrkþegar gæfu skýrslur frá ferðum sínum. Svaraði gjaldkeri því til að stjórnin hefði ekki áhuga á Spánarskýrslum. Þegar hann var inntur nánar eftir því hvað hann ætti við, tjáði hann fundarmönnum að hver sem hefði unnið hjá borginni í

Frh. á bls. 2

## BHM:

# Þakinu lyft, en baráttan heldur áfram

4. mars sl. kvað Kjaradómur upp þann úrskurð um kaupkröfur Bandalags háskólamanna að félagar BHM skyldu fá verðbætur skv. gildandi vísitölu á öll laun - þ.e. að vísitöluþakinu skyldi lyft frá 1. janúar sl. að telja. Er útgjaldaaukning ríkissjóðs talin verða um 1 milljarður kr. á árinu.

### HVAÐ ER KJARADÓMUR?

BHM hefur mjög takmarkaðan samningsrétt og ekki verkfallsrétt. Náist ekki sættir varðandi kaup- og kjarakröfur milli BHM og ríkisins eftir u.þ.b. mánaðar samningaumleitanir, gengur málið sjálfkrafa til Kjaradóms.

Kjaradómur (5 manna) dæmir eftir gildandi lögum og telst úrskurðurinn endanlegur. Dómurinn er skipaður fulltrúum ríkisvaldsins - t.d. Jóni Sigurðssyni frá "Þjóðhagsstofnun", og er hlutverk þeirra að túlka lög, ummæli eða tilskipanir stjórnvalda og skammta BHM-fólki þau laun og kjör sem löggjafinn mælir fyrir um. Þannig hafa t.d. um 700 kennarar í framhaldsskólum engin lagaleg völd til að semja og berjast fyrir því sem þeim þykir réttmætt.

Vegna alls þessa má ekki gleyma því að baráttan fyrir afnámi Kjaradóms og fullum verkfalls- og samningsrétti er afar mikilvæg pólitísk krafa.

### ÚR ORÐFLÆKJUM DÓMSBÓKAR

Í dómabók Kjaradóms má lesa eitt og annað gegnum tyrfið orðalag og tilvitnanasúpu. Segir m.a. að málsaðilar báðir (BHM og ríkið) hafi óskað eftir fresti á dómsuppsögn. Þetta er þvert ofan í orð Jóns Hannessonar formanns launamálaráðs BHM. Þegar BHM var gagnrýnt fyrir að veita frest í 3 vikur sagði hann að fresturinn hefði verið veittur að beiðni ríkisins og gegn loforði um "góðan" úrskurð! Hér vantar útskýringar.

Þá kemur fram að meirihluti Kjaradóms telur "launþega" ekki hafa haft heimild til að semja um hærri laun og verðbætur fyrr en eftir 1. desember sl. en fulltrúar ríkisvaldsins og minnihluti Kjaradóms telur að svo sé ekki fyrr en nýir allsherjarsamningar verði gerðir og að kaupránið hafi alls ekki gefið neitt tilefni til endurskoðunar á samningi BHM.

### DÓMSORÐIÐ

Félagar BHM munu nú fá greiddar eðlilegar verðbætur fyrir janúar, febrúar og mars, en ekki til 1. sept. eins og BHM krafðist. Þá munu svokölluð "5%" (þ.e. loforð um skattlækkun og úrbætur í félagsmálum, sem metin voru til jafns við 5% kauphækkun 1. des.) ekki verða bætt - fyrir BHM menn hafði lækkun verðbóta um þessi 5% í raun beina kauplækkun í för með sér. Munu félagar BHM því fá allt frá 12.000 - 50.000 kr. fyrir hvern mánuð, lauslega áætlað eftir launaflokkum 106 - 118.

### MAT Á ÞESSUM ÚRSLITUM

Eins og VB og kommúnistar innan BHM - og mjög margir baráttusinnar - hafa bent á, beið BHM of lengi með endurskoðun samninganna. Einnig reyndi launamálaráð eða forysta einstakra félaga ekki að skipuleggja neina baráttu til að fylgja kröfunum eftir. Hið ísl. kennarafélag reið þó á vaðið í lok febrúar.

Það felst því enginn baráttusigur í úrslitum málsins, en þó eins konar sigur engu að síður. Mestu réð um úrskurð Kjaradóms að t.d. borgarstjórn lyfti þakinu af borgarstarfsmönnum 1. jan. sl. og einnig það að ríkið vill róa BHM áður en ný kaupránslög ríkisstjórnarinnar koma til samþykktar.

Þó jákvætt sé að þakinu hafi nú verið lyft og hluti kaupránsins verði endurgreiddur, þá mega launamenn innan BHM ekki setjast niður við svo búið. Framundan er skerðing vísitölunnar, frestun vísitölubóta umfram 5% og niðurskurður á flestum sviðum. Við megum ekki sætta okkur við slíka árás vegna þess að önnur orusta vannst að hluta.

### ÞÁTTUR GUÐMUNDANNA

Guðmundar tveir, fulltrúar stéttasamvinnunnar í Verkalýðshreyfingunni (form. Iðju og form. Verkamannasambandsins) segja í blöðum að úrslitin séu "ósvífni, akademískt samsæri, óhæfa osfrv.". Þetta eru "sósíalistar" lærðir í "marxisma" Alþýðubandalagsins. Með þessum vaðli eru þeir að reyna að ganga í augun á verkafólki og ala á tortryggni og sundrungu milli hópa sem eru flestir á töxtum undir framfærslukostnaði. Þeir eru að skrökva að fólki. Þeir segja í raun að "atvinnuvegirnir" (auðstéttin og ríki hennar ) þoli aðeins ákveðinn skammt af launagjöldum - að gróði auðvaldsins sé ekki til skiptanna. Taki menntamenn 1 milljarði meira en áður (sem rændur var af þeim) fái verkafólk minna í sinn hlut. Þetta er stefna Vinnuveitendasambandsins.

Það verður að efla samstöðu meðal verkafólks og menntamanna, svo unnt verði að ná í kjarabætur handa báðum af ágóða auðvaldsins og hrekja burt alla Guðmundana. Það eru þeir sem sýna hámark ósvífninnar.

Fréttaritari

# STALDRAÐ VIÐ

"...,en taldi þó rétt að framlög einstaklinga eða fyrirtækja til stjórnmálaflokka yrðu frádráttarbær frá skatti." (Úr trúnaðarplaggi Sjálfstæðisflokksins).

Að þessu sinni skulum við staldra við Sjálfstæðisflokkinn. Flokkurinn á sér langa og litríka sögu sem pólitískur bakhjarl auðherra og arðræningja. Sú var tíðin að forystusveit flokksins roðnaði ekki hið minnsta við að setja á þrykk eða mæla af vörum fram vígorð íhalds og afturhalds - Stétt með stétt. Og þá var heldur enginn ruglingur á þessu orðalagi, þá táknaði orðið stétt hina ólíku samfélagslegu grundvallar hópa, t.a.m. hvað snertir eignarhald á framleiðslutækjum og öðru auðmagni. Þá var forystumönnum flokksins það vel ljóst að í þjóðfélaginu voru tvær meginstéttir, verkalýðsstétt og borgarastétt. Því táknaði ákallið um stétt með stétt einfaldlega samvinnu stéttaanna, þ.e. að verkafólk ætti bara að láta sér það vel lynda að vera arðrænt. Nú er forystusveit flokksins skipuð öðrum mönnum, sem skilja ekki svona tal. Flokksformaðurinn Geir gat alls ekki skilið, hvað þessir námsmenn væru í sífellu að tala um stéttabaráttu, þegar hann kom að máli við hóp námsmanna eitt sinn er hann átti erindi til Norðurlanda í forsætisráðherratíð sinni. Hann vissi jú ekki betur en að það væri gott fyrir stéttir eins og pípulagningamenn og múrara, trésmiði, rakara o.s.frv. að vinna saman, en að hvetja slíkar stéttir til að slást væri vitleysa ein.

Eitthvað virðist vera að rofa til í flokknum um þessar mundir og þurfti dúndrandi kosningaósigur til þess að koma af stað nýrri hugsun. Í allmiklu plaggi, sem ber heitið "Álit nefndar, sem kjörin var af miðstjórn, til að kanna orsakir kosningaúrslitanna í byggða og alþingiskosningunum 1978 og fjalla um ýmsa þætti í starfsemi flokksins." og er merkt TRÚNAÐARMÁL eru gerðar tillögur um framsókn íhaldsins

Hvað er nú til ráða hjá íhaldinu? Jú, víst eru kommanna ráð mörg og lævísleg og "Hjá stórum hópi fólks, sem aðhyllist sósíalisma, helgar tilgangurinn meðalið í stjórnmálabaráttunni. Slíkt fólk misnotar sér því óhikað alla þá aðstöðu, sem það kann að komast í. Nefndin telur rétt að haldið verði uppi skipulagsbundnu starfi til að koma í veg fyrir misnotkun almannastofnana." Sem sagt, félagar sem starfið hjá almannastofnunum. Passið ykkur. Yfir ykkur vaka frán augu, sem grandskoða allt ykkar starf. Þú kennari góður, ef þú værir svo óheppinn að lesa fyrir krakkana eina af þessum ógnvekjandi sænsku barnasögum, þá máttu vita að þú ert bókaður. Mál þitt tekið fyrir í siðaráði flokksins og starf þitt... í alvöru talað.. er ekki Sjálfstæðisflokkurinn með þessu að leggja til persónunjósnir og að þær verði unnar af flokknum sjálfum til að koma höggi á pólitískan andstæðing. Vissulega. Þeir þekkja lævís brögð sem beita þeim sjálfir.

Annars er ástandið á íhaldsheimilinu harla aumt.

- 1 -

I. Inngangur.

Þann 13. júlí 1978 var svohljóðandi tillaga samþykkt á fundi miðstjórnar og þingflokks:

"Sameiginlegur fundur miðstjórnar og þingflokks Sjálfstæðisflokksins haldinn í Valhöll 13. júlí 1978 samþykkir að kjósa fimm manna nefnd til að :

1. Kanna orsakir kosningaúrslita í byggða- og Alþingiskosningunum 1978.

2. Fjalla um málefnalega stefnumótun, skipulagslega uppbyggingu, útbreiðslustarf, fjármögnun, starfsmannahald og rekstur Sjálfstæðisflokksins.

Nefndinni er falið að kanna viðhorf forráðamanna flokkssamtakanna og skila áliti og tillögum til miðstjórnar og þingflokks fyrir 15. ágúst 1978.

Með nefndinni starfa framkvæmdastjóri flokksins og framkvæmdastjóri þingflokksins".

Í nefndina voru kjörin: Birgir Ísl. Gunnarsson, sem jafnframt var formaður, Ellert B. Schram, Inga Jóna Þórðardóttir, Ingólfur Jónsson, Jón Magnússon, Pétur Sigurðsson og Sigurlaug Bjarnadóttir. Jafnframt störfuðu með nefndinni Sigurður Hafstein, framkvæmdastjóri flokksins og Þorvaldur Garðar Kristjánsson, framkvæmdastjóri þingflokksins.

Nefndin hóf störf strax eftir að hún var skipuð og lét það verða sitt fyrsta verk að senda spurningalista til formanna allra fulltrúaráða og kjördæmisráða flokksins. Voru þannig send út 44 bréf. Svör bárust frá 18 aðilum, þar af frá öllum kjördæmisráðum nema einu. Að auki sendi Fulltrúaráð flokksins í Reykjavík svör, sem þeim bárust frá 14 flokksfélögum í Reykjavík.

Fljótlega kom í ljós, að nefndinni var skammtaður of naumur tími til að skila áliti og var miðstjórn skýrt frá því. Gerður var útdráttur úr svörum þeim, sem bárust og er sú greinargerð II. kafli þessa álits. Þá koma tillögur um þau mál, sem nefndinni var sérstaklega falið að fjalla um og loks greinargerð með tillögunum.

Einn nefndarmanna, Ingólfur Jónsson hafði ekki aðstöðu til að mæta á síðustu fundum nefndarinnar og tók því ekki þátt í lokaafgreiðslu málsins.

Í plagginu mikla er því hreyft hvort flokkurinn verði ekki að eignast eigið málgagn, en frá því er horfið vegna of mikils kostnaðar og óvissu um útbreiðslu. Vitaskuld er rétt að farið hjá flokknum að hætta við. Fyrirtækið yrði vonlaust í samkeppni við Morgunblaðið Vísi og Dagblaðið svo að ekki sé nú minnst á Alþýðublaðið. Nóg er af íhaldinu, þó svo ekki bætist enn eitt íhaldsmálgagnið í hópinn.

Svo eru það fjármálin á pólitílsku heimili auðherranna . Í plagginu stendur : "Ljóst er að, fjárhagur flokksins stendur illa, lausaskuldir eru miklar og rekstursballi verður mikill á þessu ári...Ljóst er, að undanfarin ár hafa frjáls framlög minnkað hlutfallslega." Hvað um úrbætur ? "Í nefndinni var mikið rætt um ríkisstyrki til stjórnmálaflokka. Nefndin varð ekki sammála um það mál, en taldi þó rétt að framlög einstaklinga eða fyrirtækja til stjórnmálaflokka yrðu frádráttarbær frá skatti." Hafið þið heyrt það betra. Geir og Albert gefa svona miljón hver sem einstaklingar og fyrirtæki þeirra kanski tíu milljónir hvert. Allt í flokkinn og allt frádráttarbært frá skatti. Húrra. Skattinum þetta árið bjargað á auðveldan hátt.

Eitt atriði úr trúnaðarplaggi Sjálfstæðisflokksins skal tilfært hér að lokum. Í kaflanum um útbreiðslustarf er lagt til að "Haldið verði uppi skipulegri útbreiðslustarfsemi á vinnustöðum." Það eru sjálfsögð réttindi allra pólitískra flokka og samtaka að hafa aðstöðu til að dreifa upplýsingum um stefnu sína og starf sem víðast - við getum kallað það að reka pólitískan áróður. Þessi aðstaða er bara afar misskömmtuð. Það sem íhaldið kallar útbreiðslustarfsemi hjá sér og sínum kallar það ofstæki og lúalegan áróður hjá andstæðingunum. Það er því ekki hátt undir loft hvað umburðalyndi snertir hjá þessum allrastéttapáfum auðvaldsins.

Snápur.

# Hvers vegna ekki?

Eitt þeirra atriða sem kappræðufundur EIK(m-l) með Rauðsokkahreyfingunni á dögunum leiddi í ljós grundvallarágreining um, var afstaðan til heimsvaldastefnu. Margir sem þarna voru fengu ekki svör við spurningum sínum um, hvers vegna Rausokkar vildu ekki taka afstöðu til hennar. Einnig er þörf að skýra nánar, hvers vegna EIK(m-l) telja andheimsvaldabaráttu nauðsynlegan þátt kvennabaráttunnar.

## — um afstöðuleysi Rauðsokka til heimsvaldastefnunnar

Kappræðufundurinn leiddi í ljós að það álit EIK(m-l) er rétt, að Rauðsokkahreyfingin sé samtök með ýmsa jákvæða punkta, en þau geti ekki talist verkalýðssinnuð. Þrátt fyrir slagorð sitt, "Jafnréttisbarátta: stéttabarátta", hafa Rauðsokkar ekki gætt baráttu sína stéttarlegu innihaldi. Auk þess stangist margt í stefnu þeirra á við það slagorð, s.s. afstaðan til fjölskyldunnar og upphafs kvennakúgunar, til verkalýðsforystunnar, þingræðisins og til heimsvaldastefnunnar. EIK(m-l) líta svo á að þetta geri hreyfinguna að borgaralegri, "femíniskri" (kvenrembu-) hreyfingu.

**ANDHEIMSVALDABARÁTTA ER BARÁTTA GEGN AUÐVALDI.**

Hér er ekki rúm til að setja fram skilgreiningu marxismans á heimsvaldastefnu. Það hefur verið gert á ýmsum stöðum, m.a. í mjög læsilegri grein í síðasta tbl. Rauðliðans, þar sem einnig er fjallað um alþjóðaástandið.

Ísland er ekki einangrað og baráttan gegn íslenskri borgarastétt verður ekki háð með því að loka augunum fyrir því að hún er hluti stærri heildar. En Rauðsokkahreyfingin lokar augunum fyrir því. Hún svíkur því engu síður íslenskan verkalýð, þegar hún neitar að taka þátt í baráttunni gegn óvini hans í öllum heiminum. Hreyfing sem þannig hagar sér, berst ekki á grundvelli stéttarbaráttu a.m.k. ekki með hagsmuni verkalýðs og alþýðu fyrir augum. Það kann að þykja langt gengið að segja að Rauðsokkahreyfingin standi við hlið stéttaróvina í stéttabaráttu verkafólks. En hvorum gagnar það að þegja um versta óvin verkalýðs?

Andheimsvaldabarátta er einn þáttur í baráttu verkalýðs gegn auðvaldi. Rauðsokkar segjast styðja og taka þátt í baráttu verkalýðs gegn auðvaldi. En þær geta ekki tekið þátt í einum þætti þessarar baráttu - andheimsvaldabaráttunni! Þær geta ekki tekið þátt í baráttunni gegn versta óvini alþýðukvenna og alþýðukarla um allan heim! Og rökin? Jú, andheimsvaldabaráttan klýfur kvennahreyfinguna, sé hún tekin upp. Þetta eru haldlaus rök. Stéttabaráttan klýfur alla baráttu, vegna þess að fólk skipar sér í sveitir eftir því hvaða stétt það fylgir



# Enga skerðingu á rétti til fóstureyðinga




Þorvaldur Garðar Kristjánsson, alþingismaður, hefur tekist á hendur að fjölga íslensku þjóðinni. Ekki ætlar háttvirtur þingmaðurinn þó að sjá um þetta í eigin persónu, heldur að skikka til þess kvenfólkið, og helst nauðugt. M.ö.o. hefir ÞGK lagt fram frumvarp á Alþingi um að þrengja fóstureyðingalöggjöfina, þannig að - með hans eigin orðum: ".... félagslegar ástæður geti aldrei réttlætt fóstureyðingu ....... Fóstureyðing á því ekki að koma til greina, nema líf móður sé í fyrirsjáanlegri hættu eða telja má auðsætt að barnið verði svo vangefið að ekki verði komist hjá að grípa til örþrifaráða, eða kona hafi verið þunguð af refsiverðu atferli."

ÞGK eru s.k. félagslegar ástæður til fóstureyðinga mikill þyrnir í augum. Hann segir "Félagslegan vanda á að leysa með félagslegum ráðstöfunum" Og síðar í greinargerðinni segir enn fremur: "Barnaheimilum þarf að fjölga og bæta, dagvistunarheimilum og leikskólum. Það þarf að beita almannavaldinu og samhjálp þjóðarinnar við þá konu, sem býr við slæmar heimilisástæður... svo barnið sem hún gengur með verði velkomið í þennan heim og góður aðbúnaður þess sé tryggður." - Þessi orð ÞGK verða að teljast aumasta hræsni og yfirklór þegar þess er gætt, að frumvarp hans snýst aðeins um þrengingu á fóstureyðingalöggjöfinni, en alls ekki um aukna fjárveitingu til þessara félagslegu ráðstafana. ÞGK hefir lesið skýrslur um fjölda framkvæmdra fóstureyðinga. En skyldi hann hafa lesið skýrslur um umsóknir sem synjað var ? Hér eru nokkur dæmi frá árunum 1964 til 1970.

1) 37 ára, sjö barna móðir, bóndakona. Konan var úttaugað og taugaveikluð skv. læknisvottorði, getnaðarvarnir höfðu reynst ófullnægjandi og var þetta 10. þungun konunnar. Hún sótti um vönun og fóstureyðingu. Synjað.
2) 36 ára, sjö barna móðir bóndakona, en eiginmaðurinn hafði verið sjúklingur í eitt ár. Konan sjálf léleg til heilsu, fótaveik og haldin

# Rauðliðaherferðin: Hvað er á seyði?

Rauðliðaherferðin hefur nú staðið í mánuð. En hvað hefur gerst? Áskrifendum hefur aðeins fjölgað um 18 frá því að söfnunin fór af stað, sem er aðeins þriðjungur þess sem við hefðum átt að vera búin að ná. Nú eru góð ráð dýr.

Félagi sæll. Skoðaðu nú hug þinn gaumgæfilega. Er ekki einhver vinnufélagi, vinur eða kunningi sem þú hefur ekki komið í verk að spyrja?

Lesendur og áskrifendur Verkalýðsblaðsins! Ef þið viljið komast í nánari snertingu við stefnu og starf EIK(m-l), gerist þá áskrifendur að Rauðliðanum! Skrifið til Október-forlagsins Óðinsgötu 30, eða komið í búðina á sama stað.

4.tbl. ´78 er nú alveg að koma út, kaupið það við fyrsta tækifæri.

og tilheyrir. Óski kvennahreyfing eftir því að berjast á grundvelli stéttabaráttu, hlýtur hún óhjákvæmilega að kljúfa frá sér - reka burt - alla þá sem neita þessum grundvelli og alla þá sem taka afstöðu gegn verkalýðsstéttinni.

Rauðsokkahreyfingin gerir það ekki.

EN HVERS VEGNA ?

En hvers vegna er afstaða Rauðsokkahreyfingarinnar slík? Hvers vegna tekur hún ekki afstöðu gegn heimsvaldastefnunni, sem er svo greinilega hinn sameiginlegi óvinur kvennabaráttu og allrar stéttabaráttu?

Hér þýðir ekki að skella skuldinni á almenna félaga og stuðningsmenn Rauðsokkahreyfingarinnar. Það er vafalaust rétt sem talsmenn Rauðsokka segja, að mjög margir félagar og stuðningsmenn hreyfingarinnar taki afstöðu gegn



heimsvaldastefnu.

En fyrst sökin liggur ekki hjá almennum félögum og stuðningsmönnum, hvar er hún þá? Jú, í forystu fyrir Rauðsokka hafa einkum valist útsendarar ákveðinna stjórnmálaafla. Alþýðubandalagið lítur á Rauðsokkahreyfinguna sem sína kvennahreyfingu og á marga félaga í forystu hennar. Undir æki Alþýðubandalagsins hafa einnig lagst af fúsum vilja félagar og stuðningsmenn Fylkingarinnar. Hvorki Alþýðubandalagið né Fylkingin verja hagsmuni verkalýðsstéttarinnar, hvorki hér innanlands né út á við. Þvert á móti eru þessi öfl ein ákövustu stuðningsöfl stéttasamvinnustefnu verkalýðsforystunnar og eindregnustu verjendur heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Það er því eðlilegt að þau berjist gegn því að þessi atriði séu tekin upp sem hluti kvennabaráttunnar og reyni með ýmsum loddarabrögðum að telja fólki trú um að þetta "skipti ekki máli", þetta "liggi utan við hina eiginlegu kvennabaráttu" o.s.frv. Með tárvotum tilvísunum til "samstöðu" hefur þeim tekist að halda baráttunni niðri og slæva umræður og afstöðutekt í þessum óhjákvæmilegu þáttum kvennabaráttunnar. Það er þeim hagkvæmast að Rauðsokkahreyfingin haldi sér sem mest við kynfæri og innrætingu, bleyjur og barnamat. Á meðan Rauðsokkahreyfingin lætur þessi öfl ráða ferðinni, heldur hún áfram að vera borgaraleg kvenrembuhreyfing, hvað svo sem hún gasprar um sósíalisma, byltingu, stéttabaráttu og hvur veit hvað, til að lægja mesta ágreininginn.

il

bjúg. Hafði misst eitt barn af slysförum, fjölskyldan bjó í lélegu húsnæði. Hún sótti um fóstureyðingu. Synjað.

Þetta eru aðeins tvö dæmi af fjölmörgum svipuðum. En ÞGK segir okkur, að hér sé um "velferð barnsins" að ræða. "Mætti barnaár Sameinuðu þjóðanna ekki verða okkur einhver hvatning í þessu efni? Hvað væri háleitari hugsjón en að þjóðin setti sér á þessu ári það markmið, að ekkert íslenskt barn væri óvelkomið í þennan heim af félagslegum ástæðum" spyr hann í greinargerð. En frumvarp hans snýst alls ekki um það markmið. Hvert skyldi reyndar vera hlutskipti barna við aðstæður eins og í dæmunum að framan? Til eru skýrslur um það:

1) 41 árs kona, sex barna móðir, útslitin og þunglynd skv. vottorði, maður drykkfelldur og húsnæði lélegt. Sótti um vönun, synjað. Er nú skilin, börnin hafa verið viðriðin afbrot og sett í fóstur af barnaverndarnefnd.

2) 34 ára 8 barna móðir sjómannskona, þunglynd og taugaveikluð, hafði einu sinni misst fóstur, maki drykkfelldur. Sótti um vönun og fóstureyðingu. Synjað. Er nú skilin, börnin hafa verið mikið á vegum barnaverndarnefndar vegna drykkjuskapar, afbrota og annarra vandræða.

- ÞGK er ekki einn um hræsnisfullt hugarfar - frumvarp hans gæti náð samþykki meirihluta Alþingis. Það má aldrei verða. Þessu þarf að mótmæla svo kröftulega að Alþingi þori ekki að samþykkja það.

## Kópavogshælið

Frh. af forsíðu

brigðum frá svörtu í bleikt, en allir framkvæma þeir kreppuráðstafanir auðvaldsins á sama hátt, með sama inntaki: Frysta kaup, draga úr framkvæmdum og félagslegri þjónustu, s.s. skólum, dagheimilum og sjúkrastofnunum.

Það er vitað, að heilbrigðisyfirvöld sitja nú með sveittan skallann yfir áætlunum um sparnað í starfsmannahaldi sjúkrastofnana.

Minna hefur þó frést um hvernig sá sparnaður skuli framkvæmdur. Verkalýðsblaðið hafði samband við yfirmenn nokkurra stærstu stofnana hér á Reykjavíkursvæðinu. Kom í ljós, að mjög víða hafa sjúkrastofnanir neyðst til að ráða fólk umfram heimildir samkvæmt fjárlögum, og er það ástand nánast orðið hefð, þar sem heimildirnar eru alltaf of þröngar. En nú kveður alls staðar við sama skipunin. Ekkert starfsfólk umfram heimildir. Er yfirleitt lagt bann við því að ráða í stað þeirra sem hætta þar til komið er niður í leyfða tölu, en ekki mun um uppsagnir að ræða, þar sem Verkalýðsblaðið spurðist fyrir.

Ógerlegt reyndist að fá nákvæmar upplýsingar hjá ráðningarstjórum, og báru þeir ýmsu við. Einn sagði að það gæti æst starfsfólk viðkomandi stofnunar, ef farið yrði að nefna tölur! Það hittir trúlega naglann á höfðið, enda myndi margur æsast við að fá að vita það að framvegis ættu t.d. 4 að skila því starfi sem 6 skiluðu áður.

Þó kom í ljós, að mest mun þurfa að fækka fólki á Kópavogshæli. Hefur blaðið heimildir fyrir því að nú sé 38 manns í fullu starfi "ofaukið" þar skv. ráðningarheimildum, sem flestar eru eldgamlar (yngsta frá 1975). Hér er fyrst og fremst um að ræða starfsstúlkur á Sóknar taxta, sem sjá um umönnun vistmanna.

Þessi niðurskurður er gróf árás á vistmenn og starfsfólk Kópavogshælis. Þar eru um 180 vistmenn, flestir mikið vangefnir og stór hluti þeirra lamað fólk eða ósjálfbjarga vegna sjúkdóma. Fækkun starfsfólks á Kópavogshæli myndi þýða, að ekki yrði unnt að sinna nema brýnustu líkamlegum þörfum vistmanna, sums staðar varla það. Fækkunin myndi enn fremur þýða stóraukið álag á starfsfólk hælisins. Það var þó síst á bætandi alla vega réttlæta ekki launin aukið álag.

Blaðið hvetur starfsfólk og aðstandendur Kópavogshælis til að láta ekki þessa árás ganga þegjandi yfir sig. Jafnframt fer blaðið þess á leit við lesendur að þeir hafi samband við skrifstofu Verkalýðsblaðsins viti þeir um viðlíka "þegjandi og hljóðalausa" fækkun á stofnunum.

# – menning og listir

## 1. Grease-þankar

Ég er enginn svarinn óvinur Grease-æðisins. Þvert á móti sé ég á því bjartar hliðar. Ég er þó ekki hrifinn af auglýsingastandinu sem á sinn stóra þátt í að skapa velgengni myndar og æðis. Ég er ekki hrifinn af að auðhringar á borð við Pepsi og Lee skuli ráða svo miklu að þeir geti ákveðið smekk og tísku í fataburði, hárgreiðslu og göngulagi í langan tíma. Ég er ekki hrifinn af gróðanum, sem kaupmenn hala inn á þessu æði. Ég er ekki einu sinni hrifinn af leikhæfileikum hetjunnar John Travolta eða draumameyjar hans, Oliviu Newton-John, þótt þau leiki svo sem ekkert verr en margir aðrir, sem færari teljast. En dansarnir í Grease (og fyrri myndinni, Saturday Night Fever) eru talsvert heillandi, kröftugir og eldfjörugir, og höfða til unglinganna, bæði eldri og yngri, líka til unglinga á aldur við mig sem er helmingi eldri en þeir flestir. Tónlistin er ekki síður góð í myndinni, þótt textar séu flestir innantómir og lítt til fyrirmyndar framsæknu fólki. Hið sama má raunar segja um allt efni myndarinnar, enda held ég að það höfði lítið skynseminnar í krökkunum. En hugljúft ævintýri kannski, eða goðsögn, eins og Ingibjörg á Þjóðviljanum Haraldsdóttir segir. Skaðlaust að efni, en skaðlegt auglýsingamennsku fyrir fötum og meinóhollu brilliantíni (ég held ég muni




það). Broddurinn í myndinni, gegn yfirborðsmennskunni, er harla mikið hulinn, en 12 ára stelpa sagði mér að jafnaldrar hennar skildu hann vel. - Enginn sem umgengst krakka og unglinga getur látið jafn mikilvægan þátt í lífi þeirra fara framhjá sér.

## 2. Kjarabót

Ég fór á baráttufundinn 11. mars og hreifst mjög af frammistöðu Söngsveitarinnar Kjarabótar, sem áður hét Nafnlausi sönghópurinn: Með nýju nafni virðist hópurinn hafa breytt um stíl, tekið upp rokk- og popplagastíl. Ég fagna þessari breytingu, en ég vil þó fyrir engan mun að söngsveitin hætti að flytja "hefðbundin" baráttulög, enda sýnist mér það ekki standa til. Þetta nýja form nær áreiðanlega betur til fjöldans, og slakni ekki á kröfum um innihald þess sem sungið er, er þetta stórt framsóknarstökk (sagðist hópurinn ekki einhvern tíma vera framsóknarhópur ?). Einni hættu býður þessi hraði taktur og mikla fjör í hljóðfæraleik heim, en sú er að textarnir heyrist ekki. Tveim af þeim textum sem söngsveitin flutti á baráttufundinum heyrði ég ekki nema brot af. Það voru lagið um Jakobínu rokk og Kröflulagið. Það var synd að heyra þessa texta ekki, því að þau brot sem ég heyrði, vöktu svo sannarlega forvitni og löngun til að heyra meira. Og mér heyrðist á fólkinu í kringum mig, sem klappaði söngsveitina þrisvar upp, að ég væri ekki einn um þetta álit. Söngsveitin ætti að athuga, hvort hún geti ekki flikkað upp á útsetningar í þessu skyni.

Jón Daníelsson

## 30. mars: 30 ár frá inngöngunni í NATÓ

Eins og lesendum Verkalýðsblaðsins er vafalítið kunnugt eru næstu daga fyrirhugaðar ýmsar uppákomur af hálfu Samtaka herstöðvaandstæðinga í tilefni þess að um næstu mánaðamót eru 30 ár liðin frá því að íslensk borgarastétt þröngvaði landinu í hernaðarbandalag evrópsks og bandarísks auðvalds.

Full ástæða er til að fagna þessu framtaki samtakanna. Vafalaust munu aðgerðir þessar varpa skýrara ljósi á ýmsa þá atburði er inngöngunni í NATO tengdust. Sérstaklega mun þetta verða til að efla og styrkja skilning ungra og upprennandi herstöðvaandstæðinga á nauðsyn áframhaldandi baráttu gegn hernum og NATO.

Jafnframt verðum við herstöðvaandstæðingar að varast að líta á þetta sem minningarhátíð um veröld sem var. Á hátíðina eigum við að sækja ný vopn í búr okkar, ný rök og upplýsingar. Við verðum að nota þetta tækifæri til að efla áróður okkar og vinna til fylgis nýja liðsmenn. Í því sambandi er vert að minnast framtaks Kópavogshópsins en félagi úr honum og Hannes H. Gissurarson leiddu saman hesta sína 12. þ.m. í Menntaskólanum í Kópavogi og kappræddu um NATO. Var þetta m.a. hugsað af hópsins hálfu sem tilraun til að fá í hann nýtt og ferskt fólk.

Athuga verður hvort ekki sé hægt að beina einhverjum þeirra sjálfboðaliða er starfað hafa að undanförnu við undirbúning hátíðarinnar inn í þá hverfa hópa sem starfandi eru og jafnvel að mynda nýja. Sannleikurinn er sá að frekar dauft hefur verið yfir hópunum upp á síðkastið en nú ætti að vera lag til að efla þá. Takist okkur að nýta hátíðin og þann aukna áhuga er henni fylgir til eflingar samtaka okkar þá hefur vel verið gert. Verði hún á hinn bóginn aðeins fallegur minnisvarði um liðna tíð og horfna baráttu hefur mikið verk til lítils verið unnið.

Í þeirri von að hátíðin verði Samtökum herstöðvaandstæðinga lyftistöng hvetur Verkalýðsblaðið lesendur sína til að fjölmenna á viðburði hennar.



Lönd vilja sjálfstæði - þjóðir vilja frelsi - alþýðan vill byltingu






Hergögn sem kínverjar veittu víetnömum á sínum tíma - hér sjást þau hertekin af kínverskum herjum í Víetnam. Víetnamar notuðu aðstoð kínverja til árása á kínversku landamærin.

## Kína — Víetnam:

# Vígbúnaður í Víetnam í stað uppbyggingar

Að mati kínverskra stjórnvalda hefur gagnárás þeirra náð þeim markmiðum sem stefnt var að. Heimflutningur herjanna stendur nú yfir og ætti að vera lokið þegar þessi grein birtist á prenti. Margar skoðanir eru á lofti um tilgang og árangur kínverja. Augljóst er að mark miðið hefur ekki verið að leggja undir sig víetnamskt land eða steypa stjórnvöldum þar, ennfremur er ljóst að hernaðarlegur árangur herfararinnar var mikill.

Með töku landamæraborgarinnar Lang Son töldu kínverjar að herinn hefði lokið við að kenna víetnömsku stjórninni sína lexíu.

Margar af bestu hersveitum víetnama höfðu þá lotið lægra haldi fyrir kínverjum og í raun skorti víetnama hernaðarstyrk til að hindra sókn kínverja til Hanoi.

MÁLFLUTNINGUR VÍETNAMA

Víetnamar hafa orðið margsaga í frásögnum sínum af gangi mála. Þeir hafa haldið því fram að einungis landamærasveitir og heimavarnarlið stæði gegn kínverska liðinu. Ef þetta væri satt sýndi það ekkert nema kolvitlausa herstjórn af þeirra hálfu. En í raun hafa ýmsar af úrvalshersveitum víetnama verið í baráttunni, þ.á.m. hin fræga "Tígrahersveit". Víetnamski herinn hefur hlotið sína ráðningu - og hlýtur hún að verða til þess að beiting hans gegn nágrannalöndum Víetnam minnki.

Annað mál sem Víetnamar hafa lýst á tvo vegu er fall landamæraborgarinnar Lang Son.

Víetnömsk yfirvöld neituðu því fyrst alfarið að kínverjar hefðu náð borginni en síðar lýstu víetnamar því yfir að kínverjar hefðu lagt borgina í rúst eftir að þeir hertóku hana. Þær tölur fallinna í liði Kína sem víetnömsk yfirvöld hafa birt (42.000 kínverja) hafa ekki fengist staðfestar og eru dregnar í efa.

Í heildina tekið má segja að víetnömsk fréttaþjónusta og upplýsingamiðlun sé óáreiðanleg, samanber hina stöðugu neitun þeirra á tilvist víetnamskra hersveita í Kampútseu.

HERNAÐUR KÍNVERJA

Franska fréttastofan AFP segir að samkvæmt kínverskum heimildum sé mannfall beggja aðila svipað og að í ljós hafi komið töluverðir annmarkar á búnaði kínverska hersins, m.a. sé flutningatækni hans ekki í samræmi við búnað nútímahersins.

Alls tóku um 32o.ooo kínverskir hermenn þátt í árásinni þar af fóru um 170.000 inn í Víetnam. Að sögn AFP var mannfall kínverja um 3000 og um eitt hundrað skriðdrekar og önnur brynvarin tæki.

Af frásögnum kínversku fréttastofunnar Xinhua má sjá að kínverjar hafa vitað að gagnárás þeirra hlaut ekki velþóknun almennt. 28.febrúar skrifar Xinhua að almenningsálitið í heiminum krefjist þess að Kína dragi heri sína til baka og að víetnömsku herirnir yfirgefi Kampútseu. Kínverjar taka undir þessa afstöðu og studdu tillögu nokkurra landa í Öryggisráði Sameinuðu Þjóðanna um gagnkvæman heimflutning herja. Sovétríkin beittu hinsvegar neitunarvaldi sínu til þess að hindra að þessi tillaga yrði borin undir atkvæði. Segir það sína sögu.

NOKKRAR SPURNINGAR

Ýmsar spurningar hafa vaknað við síðustu atburði í SA-Asíu. Þær helstu eru: Ef upplýsingar kínverja um árásir víetnama gegn Kína eru réttar - hver er þá tilgangur víetnama, getur það staðist að Víetnam, með sína 50 milljón íbúa ráðist á Kína með sínar 930 milljónir? Ennfremur hefur verið rætt um að Víetnam sé ekki sá bandingi Sovétríkjanna ("Kúba" Asíu) eins og Kína hafa haldið fram - Víetnam hefur sýnt að það fer sínar eigin leiðir segja sumir, en ógnanir Kína hafa hrakið þá í faðm Sovétríkjanna. Erfitt er að svara tæmandi í stuttri grein, en hér verður stiklað á helstu atriðum.

Víetnamar byrjuðu árásir sínar gegn kínverjum með því að gera aðsúg að þeim kínverjum sem bjuggu í Víetnam. Árið 1978 hófust skipulagðar ofsóknir þar sem rúm 200.000 kínverja voru sviptir eignum sínum og hraktir úr landi. Um 70% þeirra höfðu búið í N-Víetnam sem verkamenn og bændur. 160.000 fóru til Kína en aðrir, aðallega frá S-Víetnam fóru til Taiwan og fleiri staða. Greinilegt var á þessu að Víetnam hafði breytt um stefnu gagnvart Kína - með því að flæma kínverjanna burtu þá riftu víetnamar þeim samningum sem þeir höfðu áður gert um réttarstöðu þeirra kínverja sem eru búsettir í Víetnam. Árásir víetnama inn í Kína eru afleiðing af stefnu víetnömsku leiðtoganna. Þeir hafa lagt alla áherslu á hernaðaruppbygginu í stað þess að brauðfæða landsmenn og byggja upp eftir eyðileggingu bandaríska árásarstríðsins. Vopnin hafa komið frá Sovétríkjunum og greiðslurnar fyrir þau felast m.a. í árásunum gegn Kína. Einn þáttur í ætlan víetnömsku forystunnar og herranna í Kreml er að láta Kína líta út sem ágengt og árásargjarnt ríki.

Með því að egna til ófriðar var einnig verið að kanna hver viðbrögð Kína væru - stigmagnaðar árásir víetnama gengu að lokum svo langt að kínverjar stóðu við aðvaranir sínar: "við ráðumst ekki á neinn að fyrra bragði - en við svörum ef á okkur er ráðist." Hernaðaruppbyggingin í Víetnam er einn liðurinn í ætlan Sovétríkjanna að umkringja Kína. Það setur Kína vissulega í erfiða stöðu að sósíalheimsvaldasinnarnir skulu hafa strekkt víghreiður við suðurlandamærin.

Stærð þjóðanna segir lítið um átökin og upphaf þeirra. Víetnamar gátu rekið bandaríska herveldið af höndum sér og það gerðu einnig kampútseanar. Þjóðverjar réðust inn í Sovétríkin á sínum tíma og voru þó all nokkuð færri og áttu ekki bakhjarl eins og Víetnam hefur í dag þar sem sósíalheimsvaldasinnarnir eru. Ennfremur sýna ásakanir Víetnam á hendur kampútséönum um árásir þeirra gegn Víetnam að víetnamar taka sjálfir ekki mark á kenningunni um "að lítill ræðst ekki á stórann".

Víetnam hefur síðustu árin tekið einarða afstöðu með Sovétríkjunum í einu og öllu. Skoðanirnar fara saman, efnahagur landanna er að hluta samræmdur, Víetnam er nú í Comecon (efnahagsbandalagi Sovétsinnaðra ríkja) og hernaðaruppbygging eftir sigurinn gegn bandarísku heimsvaldasinnunum kemur öll frá Sovétríkjunum. Ef hinmargrómaða sjálfstæða afstaða víetnama væri nú til þá hlyti hún einhversstaðar að koma fram - og ef landið hefur verið hrakið í faðm Sovétríkjanna þá ætti einhver merki um missætti á milli forystu víetnamska Verkamannaflokksins og sovéska flokksins að vera til staðar. En slíkt er erfitt að finna nú til dags. Víetnamar gætu til dæmis byrjað með að fordæma innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu í stað þess að hylla hana. Eða þá að mótmæla hinni stórhættulegu kenningu Brésnefs um "takmarkað sjálfræði ríkja ". En ekkert slíkt gerist - Víetnam beitir bara nákvæmlega sömu hlutum gegn Kampútseu og Laos!

Einnig hafa víetnamar hyllt afskipti Kúbu af málefnum Afríku.

Af þessu er ljóst að Víetnam fylgir sósíalheimsvaldasinnunum dyggilega að máli - stríðið við Kína er bein afleiðing þessarar stefnu víetnamskra stjórnvalda .

# S.-Víetnam

Að sögn Bankok-fréttaritara danska blaðsins Information hafa útlendingar sem hafa verið búsettir í Ho Chi Minh borg (Saigon) í fjölda ára lýst því að innrás kínverja hafi vakið fögnuð í Suður-Víetnam. Information segir ennfremur að hluti af þjóðfrelsisfylkingunni (FNL) hafi nú gripið til vopna á nýjan leik - og nú í þeim tilgangi að berjast gegn "drottnurunum úr norðri".

# Frelsishreyfingar Eritreu standast árásir Eþíópíuhers

Nýlegar fréttir frá Erítreu herma að harðir bardagar hafi staðið um bæinn Nakfa í Norður-Eritreu. Hermönnum EPLF tókst að hrinda árás Eþíópíuhers og tóku fjóra sovéska skriðdreka og mikið af öðrum hergögnum herfangi. Nakfa er í miðju þess svæðis sem EPLF hefur aðsetur sitt, og megintilgangur Eþíópíuhers var að ná fótfestu á áhrifasvæði hreyfingarinnar.

EPLF tókst einnig að stöðva tilraun Eþíópíuhers til að brjótast út úr bænum Afabet sem liggur nokkru sunnar og EPLF yfirgaf fjórum vikum áður.

Skrifstofa ELF í Stokkhólmi hefur upplýst að eþíópísk herlið reyndu að brjótast út úr höfuðborginni Asmara 24.febrúar. Jafnframt var sprengjum varpað á nærliggjandi bæi. 98 óbreyttir borgarar létu lífið í árásinni og 78 særðust alvarlega. Árásinni var hrundið eftir sjö tíma harða bardaga.

Heimildir frá Freetown í Sierra Leone herma að Mengistu Haile Mariam hafi færst undan að ræða stríðið í Erítreu við forseta Sudans, Jaafar Nimeiri., er þeir hittust til að ræða bætt samskipti Súdans og Eþíópíu. Nimeiri forseti heldur því fram að eitt af höfuðvandamálunum í samskiptum landanna séu þeir 300 þúsund flóttamenn sem flúið hafa undan sprengjuárásum Sovétríkjanna og Kúbu í Erítreu. Um Súdan liggur aðflutningsleið frelsishreyfinganna í Erítreu.

Heimild: Gnistan.

# 24. mars: Dagvistarsamstarfið

Kröfuganga samstarfshóps um dagvistarmál 24.mars.

Mæting verður á Hlemmi kl. 13.30. Gangan fer af stað kl. 14.00.

Gengið verður niður Laugaveg. Að lokinni göngu verður útidagskrá á Lækjartorgi.

Þar verður:

- Eitthvað skemmtilegt fyrir börnin
- Stutt ávarp
- Söngsveitin Kjarabót
- Sönghópar, og margt fleira.

Kröfurnar í göngunni verða þessar:

1. Fleiri dagvistarheimili í öll hverfi!
2. Fleiri skóladagheimili strax!
3. Gegn niðurskurði borgaryfirvalda á framlögum til dagvistarmála!
4. Bætt kjör og vinnuaðstäða fyrir fóstrur!
5. Færri börn á hverja deild!
6. Betri námsaðstöðu fyrir fóstrunema!
7. Betri aðstöðu á gæsluvöllum!
8. Jafnréttisuppeldi!

## Mikilvæg samstaða

Frh. af baksíðu

einkaframtak hans, sneisafullt af Rauðsokkaáróðri, sem braut freklega þann grundvöll sem fundinum hafði verið markaður.

Á skorti að betur væri dregin fram þörfin fyrir baráttu og bent á leiðir til baráttu. Þetta skýrist vafalaust af því að samning hennar var að mestu leyti í höndum Rauðsokka, og 8.mars-hreyfingin kom alltof seint þar nærri. Það var því andi Rauðsokka sem mótaði samfelldu dagskrána, en ekki baráttustefna 8.mars-hreyfingarinnar. Þarna hefði 8.mars-hreyfingin átt að vera betur á verði.

MISTÖK FUNDARSTJÓRA

Rauðsokkar sáu fundinum fyrir fundarstjóra, sem framdi auk þess sem áður er getið önnur mistök í fundarstjórninni. Hún lýsti yfir fundarhléi og kaffiveitingum, áður en hún gaf gesti fundarins, fulltrúa Samstarfshóps um dagvistarmál, Sigrúnu Halldórsdóttur orðið til að kynna starf og ætlan hópsins.

STEFNAN SKIPTIR MESTU

En þrátt fyrir galla og mistök má segja að fundurinn hafi tekist eins vel og við var búist. 8.mars-hreyfingin hafði ekki mikið afl til að leggja í þennan fund, vegna mikils starfs að dagvistarmálum. Væntanlega verður þetta samstarf til þess að ýta undir og efla jákvæð viðhorf margra félaga Rauðsokkahreyfingarinnar til framsækinnar kvennabaráttu, gegn vægast sagt undarlegri pólitík sumra sem þar skipa forystuliðið. Meginatriðið er jú þrátt fyrir allt að berjast fyrir réttri og framsækinni stefnu í kvennabaráttunni og þar með gegn stefnu sem skaðar eða veikir kvennabaráttuna. Því verða baráttusinnar að halda áfram baráttunni gegn röngum þáttum í stefnu Rauðsokkahreyfingarinnar, röngum starfsaðferðum og röngu skipulagi.

# Alþýðubandalagið í Kópavogi: Grundvallarágreiningur um stefnu og starf

ALRANGT MAT

Helga: - Ég tel að það hafi verið alrangt hjá blaðinu að setja málið upp sem togstreitu tveggja hópa án málefnalegs ágreinings. Þessa hópa greinir á í grundvallaratriðum. Ástæða afsagnar okkar var sú að forystuhópur Alþýðubandalagsfélagsins er kominn svo langt í átt til borgaralegra sjónarmiða, að þeir sem telja sig sósíalista geta með engu móti fylgt þeim lengur. Mín reynsla er sú að það sé nánast ekkert sem greini þessa menn frá leiðandi mönnum hinna flokkanna. Fremur virðist mér margt benda til þess að þeir eigi sömu hagsmuna að gæta, bæði í efnahagslegu, pólitísku og hugmyndafræðilegu tilliti.

Finnur T.: - Ég var talsvert undrandi á þessari grein Verkalýðsblaðsins. Satt að segja orkaði hún þannig á mig að sá sem hana ritaði brygðist þeirri eldfornu dyggð að leitast við að greina á milli góðs og ills. Í þessum ágreiningi í Kópavogi kristallast nefnilega skoðanamunur sem hlýtur að koma öllum við sem telja sig sósíalista, ef þeir meina þá eitthvað með því.

ÞRJÚ GRUNDVALLARATRIÐI

Verkalýðsblaðið: - Um hvaða grundvallaratriði snýst þá ágreiningurinn?

Finnur T.: - Ég skal taka þrjú dæmi sem sýna hinar skörpu andstæður. Í fyrsta lagi er stefnan. Annars vegar viljum við að dægurmálabaráttan sé tengd mótaðri framtíðarstefnu. Hins vegar eru þeir sem segja að það eitt skipti okkur máli að komast í meirihlutaaðstöðu "til að geta haft áhrif fyrir umbjóðendur okkar", eins og þeir hafa orðað það og komið hefur fram opinberlega. Mér er til efs að hægt sé að orða hentistefnusjónarmið miklu skýrar. Í öðrulagi eru vinnubrögðin. Annars vegar gerum við þá kröfu að flokksfélagarnir móti á lýðræðislegan hátt einhverja heildarstefnu, sem þeir síðan reyni að leiða fram til sigurs. Hins vegar eru þeir sem líta svo á að upphafið að lausn mála eigi að vera í meirihlutasamstarfinu, - topparnir eigi fyrst að makka, og síðan - þegar þeir hafi komist að samkomulagi - sé kominn tími til að leggja málin fyrir almenna félaga. Í þriðja lagi er stjórnkerfið og embættismennirnir. Við töldum vægast sagt mjög æskilegt að þessu stjórnkerfi, sem uppfullt er af íhalds- og framsóknarmönnum, yrði gjörbreytt. Hinn hópurinn virtist sjá litla ástæðu til þess.

Í VASA ATVINNUREKENDA

Verkalýðsblaðið: - Helga, þú sagðir að Alþýðubandalagsforystan í Kópavogi hefði sömu efnahagslegu og pólitísku hagsmuna að gæta og borgaralegu flokkarnir. Hvað áttu við með því?

Helga: - Á snærum allra stjórnmálaflokkanna - einnig Alþýðubandalagsins - eru margir stórir atvinnurekendur, verktakar og iðnmeistarar. Þeim er það mikið hagsmunamál að búa svo um hnútana að þeir séu sem lengst inni á gafli hjá stjórnvöldum bæjarins. Þeirra vegna er samtrygging allra flokka í bænum geysivíðtæk. Kópavogur hefur verið mikið gósenland þeirra sem fjármagninu ráða um langan tíma, eftir að uppbyggingin fór að verða veruleg þar. Það er ákaflega margt sem bendir til þess, að við skipulagningu og framkvæmdir í bænum sé fremur tekið mið af hagsmunum þessara aðila en hagsmunum fólksins eða heildarinnar. Finnur Torfi minntist áðan á hentistefnu í bæjarmálastefnu Alþýðubandalagsins. Ég vil kveða enn fastar að orði. Ég tel að það sé meðvituð stefna forystunnar í Alþýðubandalaginu að hafa allt svona laust og ómótað, svo að hægt sé að stjórna þessu öllu á borgaralegan hátt og halda áfram að hygla ýmsum hagsmunahópum.

Verkalýðsblaðið: - geturðu nefnt einhver dæmi um þetta ?

Helga: - Já. Á útmánuðum í fyrra var 12 - 13 stigahúsum í Furugrund úthlutað, vegna þess fyrst og fremst að ákveðna verktaka vantaði verkefni. Skömmu áður en ég fór kom svo inn á borð hjá meirihlutanum tillaga um að úthluta landspildu á milli Nýbýlavegar og Auðbrekku undir verslunar-, iðnaðar- og raðhús. Þótt kassinn væri tómur og hefði engin efni á að byrja á þessu, var á forystu Alþýðubandalagsins að heyra, að rétt væri að fara út í þetta, því verktakarnir væru að verða verklausir inni í Furugrund ! Þetta eru aðeins dæmi um vinnubrögðin.

ALLUR SÓSÍALISMI OFSTÆKI

Finnur T.: - Í sambandi við skipulagsmálin í bænum langar mig til að nefna að í desember s.l. var haldinn fundur bæjarstjórnar og nokkurra nefnda bæjarins um skipulag miðbæjarins. Þar kom skýrt í ljós að skipulagið í Kópavogi er eingöngu tæknilegt skipulag, skrifborðsvinna tæknikrata. Nauðsynlegur félagslegur eða hagfræðilegur grundvöllur hefur hins vegar aldrei verið lagður. Ætti hann þó að skipta sósíalískan flokk meginmáli í skipulagsmálum.

Helga: - Það verður að segjast eins og er, að Alþýðubandalagið ber fulla ábyrgð á þessu ömurlega skipulagi og þeim skipulagslegu skyssum sem gerðar hafa verið. En hér er ekki aðeins um skyssur að ræða, heldur pólitíska tímaskekkju. Síðustu árin hafa ýmis ný viðhorf til skipulagsmála komið fram og verið rædd, m.a. innan Alþýðubandalagsins. En forysta Alþýðubandalagsins hér kallar allt slíkt ofstæki og ofurróttækni. Og svipað gerist í öðrum málum. Sé reynt að brydda upp á stefnumálum sósíalista eru viðbrögðin þau sömu og hjá öðrum borgaralegum flokkum, - að stimpla allt sem ofstæki. Mín reynsla er sú að róttækt fólk fær að vera með og starfa í Alþýðubandalaginu, en ef það ætlar að fara að hafa veruleg áhrif er sagt : Hingað og ekki lengra ! Það var það sem gerðist með okkur. Við vorum farin að ógna borgaralegum hagsmunum Alþýðubandalagsins í Kópavogi, bæði fjárhagslega og hugmyndafræðilega. Menn verða að læðast með veggjum, ef þeir hafa einhverjar róttækar skoðanir.

FRAMHALDIÐ

Verkalýðsblaðið: - Að lokum - hvert verður framhaldið ?

Finnur T.: - Ég get ekki mikið um það sagt hér og nú. Ég má þó til að nefna, að við nánari umhugsun um þessa atburði og um atburði síðustu daga á landsmálasviðinu hef ég sannfærst um það að útkomuleiðin út úr þessum deilum í Kópavogi sé sú, að einlægir sósíalistar þar, og helst sem víðast í Alþýðubandalaginu - og þeir eru margir - taki til endurskoðunar ýmis atriði sem eru grundvallaratriði hvers flokks sem vill kalla sig sósíalískan. Einkum á ég þá við spurninguna um það, hvort mögulegt sé fyrir sósíalískan flokk að taka þátt í stjórnun borgaralegs þjóðfélags. Komist menn að þeirri niðurstöðu að það sé gerlegt og rétt, verður að meta það mjög vandlega, nánast í smáatriðum, hvernig það mætti þá gerast. Ég hef hingað til talið þetta erfiða, en þó færa leið, en nú er ég alls ekki sannfærður um það. Í sambandi við framhaldið vil ég líka taka fram, að sjálfsagt munum við halda áfram að túlka skoðanir okkar innan Alþýðubandalagsins. En það er ekki síður mikilvægt að við náum tengslum við allt það fólk utan flokksins sem hefur sósíalísk viðhorf. Margt af því fólki hefur kosið Alþýðubandalagið, en með hundshaus þó, af því að það hefur takmarkaða trú á starfsháttum þess.

---

Verkalýðsblaðið þakkar þeim Finni Torfa Hjörleifssyni og Helgu Sigurjónsdóttur viðtalið. Um leið biðjum við alla lesendur afsökunar á þeim orðum síðasta tbl., sem vitnað var til í upphafi þessa viðtals. Þetta viðtal afsannar niðurstöðu þess, sem fengin var með slælegum vinnubrögðum og án rannsóknar.

## Nokkur orð vegna Stúdentaráðskosninga

Í fyrra hvöttu EIK(m-l) í Háskóla Íslands, stúdenta til að skila auðu í stúdentaráðskosningunum. Ástæða þess var einkum allmikill ágreiningur, sem kom fram á ráðstefnu vinstri manna í HÍ, milli félaga og stuðningsmanna EIK(m-l) annars vegar og forsprakka vinstri manna hins vegar. Ágreiningur þessi fólst aðallega í afstöðunni til ríkisvaldsins, og þar af leiðandi hvaða baráttuaðferðum skuli beita í hagsmunamálum stúdenta. Afstaða EIK(m-l) var og er að ríkisvaldið er höfuðóvinur námsmanna og það skiptir ekki máli hvort ríkisstjórnin er kölluð hægri eða vinstri stjórn. Í málflutningi forsprakka vinstri manna kom fram að einföld stjórnarskipti gætu haft í för með sér afgerandi breytingar. Það er að segja að ríkisvaldið væri vinsamlegra námsmönnum ef ríkisstjórnin kallaðist vinstri stjórn.

Í vetur hefur vinstri stjórn verið við völd. Og í ljós hefur komið að afstaða EIK(m-l) er rétt. Ríkisvaldið hefur ekki verið námsmönnum hagstæðara. Forysta vinstri manna í HÍ hefur gert sér grein fyrir þessu, og nokkurri baráttu hefur verið haldið uppi gegn niðurskurðaráformum ríkisvaldsins.

Ágreiningurinn í fyrra snerist aðallega um baráttuaðferðir í lánamálum, en ekki um menntamál eða málefni Félagsstofnunar stúdenta. Afstaða vinstri manna í HÍ til fjöldatakmarkana, stjórnunnar Háskólans og inntökuskilyrða er rétt. Einnig er sú stefna að verðlag FS skuli miða við greiðslugetu námsmanna góð stefna og hana ber að styðja. Málefni FS hafa einmitt verið í brennidepli undanfarið, og það er mikilvægt að stúdentafjandsamleg stefna Vöku í þeim, komist ekki að.

En hvaða breytingar frá í fyrra eru þess valdandi að félagar og stuðningsmenn EIK(m-l) styðja nú framboð vinstri manna ?

Fáein atriði mæla með slíkum stuðningi. Eins og áður sagði hefur forysta vinstri manna haldið uppi nokkurri baráttu gegn ríkisvaldinu. Ráðherra menntamála, Ragnar Arnalds, hefur lofað breytingum á námslánalögunum, og á það ber að reyna allsterklega. Að okkar mati eru sumir forystumenn vinstri manna óhóflega bjartsýnir á verulegar umbætur, þrátt fyrir ríkjandi kreppuástand og niðurskurð á framlögum til mennta- og félagsmála. Ástæða er til að vara við slíkri bjartsýni.

Undanfarnar vikur hafa farið fram umræður um lánamálin í deildarfélögunum. Haldin hefur verið ein ráðstefna um þau mál og önnur er fyrirhuguð. Umræður sem þessar eru til þess fallnar að skapa samstöðu um þær kröfur sem námsmenn verða að berjast fyrir í næstu framtíð.

Í ljósi ofanritaðs lýsum við stuðningi við framboð vinstri manna. En stuðningur okkar hlýtur að vera því skilyrtur að vinstri menn efli og leiði fjöldabaráttu gegn niðurskurðaráformum ríkisvaldsins.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á
gíró 12200-9

ÁBM: ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskrift: kr. 1750
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30 Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212





# Baráttufundurinn 11. mars:
# Mikilvæg samstaða

Þann 11. mars var haldinn í Félagsheimili stúdenta baráttufundur Rauðsokkahreyfingarinnar og 8.mars-hreyfingarinnar í tilefni alþjóðlegs baráttudags kvenna. Til fundar mættu um 250 manns, en það er um helmingi minna en mættu á fundi þessara hreyfinga í fyrra, en þá héldu þær fundi hvor í sínu lagi. Þess ber að vísu að geta, að Rauðsokkar héldu fund sinn í fyrra með MFÍK (Menningar- og friðarsamtökum íslenskra kvenna) og Kvenfélagi sósíalista. Eitthvað virðist því hafa brugðist í fjöldastarfinu í ár. T.d. urðum við ekki vör við neinar auglýsingaherferðir, dreifirit eða plaköt. Það kann og að hafa haft sitt að segja, að fundinn átti upphaflega að halda 8.mars, en honum varð að fresta til sunnudagsins vegna fárviðrisins, sem gekk yfir þá.

MERKISVIÐBURÐUR

Það var tvímælalaust merkisviðburður, að þessi fundur skyldi verða að raunveruleika. Mestu skiptir að þarna náðist samstaða á grundvelli sem er talsvert víðtækari og framsæknari en Rauðsokkar hafa áður fengist til að starfa á. Auk þess má vænta þess að félagar beggja hreyfinganna hafi ýmislegt af þessu samstarfi lært um hverja aðra.

Í heildina tekið voru dagskráratriði vel samin og flutt. Söngsveitin Kjarabót (áður Nafnlausi sönghópurinn) flutti eldfjörug lög, og Kór Rauðsokka söng af miklum fítonskrafti. Samfellda dagskráin var ágæt lýsing á aðstöðu kvenna, en dálítið löng. Með styttri samfelldri dagskrá hefði e.t.v. verið rúm fyrir meiri fjölbreytni, t.d. fjöldasöng.

Ávörp hreyfinganna voru stutt og laggóð. Baráttuhvatningin í ávarpi 8.mars-hreyfingarinnar var góð. Slíkar hvatningar hefðu mátt vera fleiri.

Á fundinum var samþykkt greinargóð ályktun sem mótmælti harðlega afturhaldstillögu íhaldsþingmannsins Þorvaldar Garðars Kristjánssonar um skerðingu á rétti til fóstureyðinga.

Fundinum bárust kveðjur frá Fylkingunni og EIK(m-l).

BARÁTTUSTEFNU VANTAÐI

Megingalli dagskrárinnar var sá að hún faldi þann raunverulega ágreining sem á milli hreyfinganna er. Kann því að verða jafnvel erfiðara fyrir fólk en áður að sjá muninn. En mismunurinn kom þó fram, ef grannt er skoðað, t.d. í setningarávarpi fundarstjóra, sem var

Frh. á bls. 7

# Skrifstofa — viðtalstími ritnefndar

Ritnefnd Verkalýðsblaðsins mun héðan í frá hafa fastan viðtalstíma á skrifstofu blaðsins að Baldursgötu 7a Reykjavík á þriðjudögum kl. 17 - 19. Ritnefnd Verkalýðsblaðsins biðst afsökunar á því að þessum þætti í starfsemi blaðsins hefur ekki verið sinnt fyrr en nú.

Um tilgang viðtalstíma segir Albert Einarsson, ritstjóri: "Hingað getur fólk leitað í margvíslegum erindum . Fyrst og fremst er um að ræða fólk sem hefur frá einhverju að segja, sem það telur vera efni í blaðið, eða gefur okkur ábendingu um efni. Við hvetjum líka til þess að félagar og stuðningsmenn líti við þegar þeir hafa gagnrýni á blaðið.

Skrifstofan er opin á þriðjudögum kl. 17 - 19 staðurinn er Baldursgata 7a

# Kappræðufundur með Fylkingunni

"Allir möguleikar til samfylkingar þessara samtaka eru nú að bresta", sagði Halldór Guðmundsson, félagi í Fylkingunni, Íslandsdeild trotskíista, í ræðustóli á kappræðufundi EIK(m-l) 15. mars sl. Um það efuðust fáir, slíkur var málflutningurinn.

Fundurinn hófst með framsögu Alberts Einarssonar frá EIK(m-l) um utanríkisstefnu Kínverska Alþýðulýðveldisins. Næst töluðu framsögumenn Fylkingarinnar, Halldór Guðmundsson og Stefán Hjálmarsson.

Umræður voru harðar og fjörugar. Sumir fóru allmjög út fyrir efnið, t.d. Ólafur Gíslason, sem nú virðist orðin sérstök málpípa nýrrar lygaherferðar Sovétmanna um "ógnaröldina" í Kampútseu á valdatíma Pol Pots. Þessi nýja herferð byggir í meginatriðum á sama grunni og sú herferð, sem Elín Pálmadóttir er Íslandsfulltrúinn fyrir, en gengur þó enn lengra í sumu.

Það er tillaga okkar að Ólafur hafi samband við Elínu, svo að þau geti samræmt lygarnar. Það er ekkert vit í að dreifa svona kröftunum.

Kappræðufundur við Fylkinguna virðist vera til lítils. Þeim verður ekki bjargað. Og deilur við Fylkinguna sannfæra ekki marga, því að þeir hafa sérstakt lag á að halda slíkum umræðum á allra lægsta plani.

Á fundinum mættu um 150 manns.

Í fundarhléi voru seld merki dagvistunarsamstarfsins og deilt út undirskriftalistum. Við spurðum, hvernig þetta starf hefði gengið. "Við erum búin að fá inn peninga fyrir 365 merki - 73 þús. kr. - og mörg hundruð listar eru komnir af stað. Kröfugangan 24. mars verður glæsileg!"



Félagið Ísland — DDR,
Íslenska friðarnefndin og
Menningar og friðarsamtök íslenskra kvenna

**efna til fundar**

í tilefni af alþjóðaþingi Heimsfriðarráðsins í Berlín þ.á.
Fundurinn verður haldinn þriðjudaginn, 13. þ.m. í Auditorium, Hótel Loftleiðum, kl. 20.30.
Dagskrá:
1. Berlín — Borg friðar:
Þing Heimsfriðarráðsins 2. — 5. febr. 1979.
Ræðumenn: Dr. Ingimar Jónsson,
Árni Bergmann, ritstjóri,
Guðsteinn Þengilsson, læknir,
sem allir sátu ráðstefnuna.
2. Kvikmynd frá þýska alþýðulýðveldi.

Allir velkomnir
Félag Ísland — DDR
Íslenska friðarnefndin
MFÍK






Heimurinn allur ætti að vera í þakkarskuld við Víetnem fyrir að aflétta ógurlegu stjórnarfari í Kampúseu

Það voru ekki margir sem áhuga **höfðu á "friðarboðskapnum" frá Austur-Evrópu og leppum þeirra á Íslandi.** Fundar menn voru 18 að tölu, sendiherra DDR var heiðursgestur.

# „Friðarsinnar" lýsa stríði á hendur Kína

Árni Bergmann ritstjóri mætti ekki á fundinn um friðarráðstefnuna í Austur- Berlín eins og auglýst var. Þess í stað var fenginn Ólafur Gíslason, nýkominn af stuðningsráðstefnu við Víetnam í Helsinki. Heilan klukkutíma hellti hann út úr sér ógeðslegum lýsingum sem Pólverji nokkur, sem hann hitti í Helsinki hafði að sögn verið vitni að í Kampútseu.

Síðan var samþykkt ályktun sem fordæmdi stríðs - og heimsvaldastefnu Kínverja.

Kl. 20.30 voru mættir þrír í ráðstefnusal Hótels Loftleiða. Hálftíma síðar voru þeir orðnir 18 og hófst þá fundurinn. Dr. Ingimar Jónsson og Guðsteinn Þengilsson , læknir, báðir tryggir Sovétvinir fluttu 15 mínútna ávarp hvor. Töluðu þeir um friðarráðstefnuna í Austur - Berlín, eins og reyndar var auglýst.

Síðan kom í pontu Ólafur Gíslason, fyrrv. form. Víetnam-nefndarinnar á Íslandi. Var hann nýkominn af ráðstefnu til stuðnings Víetnam, sem haldin var í Helsinki í Finnlandi, en þangað fór hann á vegum og kostnað Ísl. friðarnefndarinnar.

Klukkutíma löng ræða Ólafs fjallaði að mestu um ógeðfelldar og ótrúlegar lýsingar frá Kampútseu, sem hann hafði eftir pólverja í Helsinki. "...sá hann 15 4,30 m djúpar holur í herbergi. Í 13 þeirra flutu lík í svartri leðju..." "25% af þjóðinni útrýmt.." "..6 læknar eftir í Kampútseu"

Svo ferlegar voru lýsingarnar að Elín Pálma hefði varla gert betur. Síðan var ráðist á Deng Xiao-ping af því að hann hefði fallist í faðma við Jackson nokkurn þingmann í USA-för sinni, og Jackson þessi var íhaldsmaður! Loks réðist Ólafur harkalega á Kína, sagði það stríðs- og heimsvaldasinnað í samvinnu við Bandaríkin. - Væri grátlegt, sagði hann, að sjá Kína, sem kennir sig við sósíalisma, ráðast á friðelskandi þjóð (Víetnam). Heimurinn í dag ætti að berjast fyrir friði, með Víetnam sem leiðandi þjóð."

Síðan var borin upp ályktun. Helsta innihald hennar var töluvert blaður um frið og friðarást og síðan hörð árás á Kína og innrás þeirra í Víetnam. Náðist ekki að bera ályktunina undir atkvæði, því hún var samþykkt með lófataki.

Hér lýkur frásögn þessari frá fundinum. Eins og flestir vita, þá eru Sovétríkin og leppríki þeirra í Austur-Evrópu heimsvaldasinnuð ríki, sem undirbúa 3. heimsstyrjöldina. Sovétríkin beita yfirgangi og efna til ófriðar alls staðar þar sem þau koma nærri. Í Afríku, Afganistan, Svalbarða, og nú Víetnam. Sovétríkin standa að baki stjórninni í Hanoi og leiða innrásina og hernám þeirra á Kampútseu. Nýjustu fréttir herma að víetnamskt herlið leiti nú inn í Tailand ! Falleg friðarstefna það !

Friðarhjal sovétsinna er hættulegt yfirklór yfir heimsvaldaeðli Sovétríkjanna, og árás þeirra á Kína er gerð eftir pöntun frá Bresnjev til að leiða athyglina frá ógnarverkum Sovétríkjanna.

Niður með risaveldin USA og USSR og stríðsæsingastefnu þeirra!

Kínavinur.